# Acta
# Yfirréttarins
á
# Íslandi,
fyrir árin 1773-1776.



Leirárgørdum vid Leirá, 1800.
Prentud á kostnad Notarii B. Stephensens,
af Factóri og Bókþryckjara Schagfjord.

**Annó 1773, þann 22ann Júlí, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidió Stiptamtmanns L. A. Thódals, med undirskrifudum Assessórum.**

## NUM. I.

Mætti fyrir Yfir-rettinum Sýslumadur J. Jakobsson, sem framlagdi Yfir-rettar stefnu undir Stiptamtmanns Thódals nafni og landsins signeti, af 16da hújus, med hvorri til stadfestingar innstefnast Hierads og Extra-Logþingis dómar, affagdir 1ta og 15da Aprílis nærstl. af Sýslumanni V. Scheving og Logmanni S. Sölvasyni, í hórdóms sök Peturs Bjarnasonar, sem einnig er stefndur ad mæta fyrir Yfir-rettinum; stefnan upplesin og merkud lit. A. Því næst framlagdi Sýslumadur J. Jakobsson Hierads og Extra-logþingis Prócessa og dóma í nefndri sök, í hvörs slúttníngu Delinqventinn Petur Bjarnason, er dæmdur ad missa hoftid sitt med eggsi, fyrir þridja framid hórdóms brot;

Próceßinn lesinn og markadur lit. B. Uppá Delinqventsins vegna mætir, sem Defensor, Sýßlumadur G. Runólfsson, og uppástendur, ad Delinqventinn verdi frikenndur frá ad missa lífid, eptir Forordníngunni af 13da Júní 1771. Þar uppá repliqverar Sýßlumadur J. Jakobsson, ad sama Forordníng hafi, þá brotid skedi og vard opinbert, aptur verid upphafin med annari kóngl. Forordníngu, og kunni því ecki ad koma Delinqventen til aßistunar. Lögmadur S. Sölvason framlagdi innlegg, af dags dató, til forsvars sínum Extralögþíngis dómi, lesid og markad lit. C. Delinqventen fyrir Rettinum examineradur, medkiennir allt hid sama, sem ádur fyrir Hierads- og Extra-Lögþíngis-rettunum, og segist eckert hafa ad framfæra ser til forsvars, fyrir utan þad, sem Defensor allareidu hafi uppástadid, í Anledning af Forordníngunni af 13da Júní 1771, um hvörja hann segist hafa heyrt talad, ádur enn hann framdi hid seinasta brot. Meira höfdu ecki partarnir ad framfæra, utan Sýßlumadur J. Jakobsson uppástód Hierads og Extra-Lögþíngis dómanna stadfestíngu; var því svolátandi Yfir-rettar dómur í sökinni afsagdur:

## Extra-Lögþíngis dómur Lögmanns S. Sölvasonar, med hvörjum Delinqventinn Pétur Bjarnason, egingiptur, fyrir hans framid þridja hórdóms

dóms brot, er dæmdur eptir Stóra-dóms hljódun til ad missa lífid, og med eggsi hálshøggvast, er af Yfir-réttinum hér med stadfestur; þó má engin Execútión ské á hans lífi, fyrri enn søkin er konúnglegri hátign allraundirdánugast refererud, og allranádugasta Resólútíón aptur innkomin. *Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

O. Stephánsson. B. Markússon.
J. Olafsson. M. Olafsson.
L. Gudmundsson. H. Jakobsson.
J. Eggértsson. S. Sigurdsson.
S. Finnsson. J. Jónsson.
H. Þorgrímsson.

## NUM. II.

Þann 23ja Júlí settist Yfir-retturinn ad uþþu; mætti þá Sýslumadur S. Sigurdsson, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 17da hújus, undir Stiptamtmanns Thódals nafni og landsins signeti, med hvørri til stadfestingar innstefnist Løgþingis dómur, afsagdur af Løgmanni B. Markússyni, í Gudrúnar Pálsdóttur dulsmáls søk, sem einnig er stefnd ásamt hennar Talsmanni, Sýslumanni H. Þorgrímssyni; endilega er og

fiefndur Sýslumadurinn S. Sigurdsson, sem vidkomandi sakarinnar, m. v., sem siefnan med ser ber, lesin og merkud lit. A. Sýslumadur S. Sigurdsson framlagdi Hierads og Løgþíngis Acta í sokinni, af 1770, í hvørs slúttníngu Delinqventinden Gudrún Pálsdóttir er dæmd, fyrir framid dulsmál, ad missa høfudid, upplesnir og áteiknadir lit. B. Annann þíngs-act framlagdi Sýslumadur S. Sigurdsson, af 20ta Octóbr. 1770, áhrærandi eitt annad dulsmál, sem nefnd Delinqventinde hefir framid, og fyrir Retti medkennt, samt vitni þar um yfirheyrd, en engin Decision þar um gjørd í Hieradi, lesinn og markadur lit. C. Enn þá framlagdi sami Sýslumadur eitt Dócúment, áhrærandi þessa Delinqventinde, ad hún í þridja sinni hafi verid misgrunud og álitin fyrir ad vera ólett, hvad af yfirsetukonum hefir attesterad verid þann 27da Apr. 1771, og uppástendur Sýslumadurinn, ad Hierads og Løgþíngis dómarnir verdi stadfestir; Dócúmentid uppl esid og markad lit. D. Delinqventindens Talsmadur, Sýslumadur Z. Þorgrímsson uppástendur þarámóti: ad med því nockrar óransakadar kríngumstædur framkomi, sem endilega þyrftu ad koma undir náqvæmari Inqvisition, svo verdi sokin ecki ad þessu sinni til dóms fyriteckin. Hvar uppá siell svoddan Yfir-rettarins Alyktan:

Sá af Sýslumanni S. Sigurdssyni framlagdi Herads og Løg-þíngis dóm-

dómur í þessu máli, kann ecki af Yfir-rétt-inum að þessu sinni uppákénnast, þar be-vísanlega framkémur, að Guðrún Páls-dóttir hafi, fyrir utan það í fyrsta sinni umgétna dulsmál, fyrir hvørt hún er dæmd, framið ønnur tvø seinna, af hvørjum það fyrra er examinerað og af henni meðkénnt, en það síðara ecki svo fullkomlega, sem vera ber; þarf því ecki einúngis náqvæm-lega að undirsækjast, heldur og Delinqvent-inden, fyrir øll þessi brot, eptir forþén-ustu, að nýju løglega dæmast, hvørjum seinna dómi Sýslumaður S. Sigurðs-son hefir, nærstkomandi ár, að innstefna fyrir Løgþingis- og Yfir-réttinn, svo søk-in kunni, án lengri undandráttar, fyrir øllum landsins Réttum, það fljótasta møgu-legt er, að afgjørast. A meðan skal De-linqventinden vera í forsvaranlegri vøktun hjá Umboðshaldaranum í Vestmanna-eyjum. *Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | S. Sølvason. |
| J. Olafsson. | M. Olafsson. |
| G. Runólfsson. | L. Gudmundsson. |
| H. Jakobsson. | J. Eggértsson. |
| | J. Jak. |



J. Jakobsson. S. Finnsson.
J. Jónsson. H. Vidalin.

## Num. III.

Sama Eptirmiddag vóru af Yfir-rettinum fyriteknn þau af Helga Bjørnssyni á Valdaráfi framsendu Dócúment fyrir Yfir-rettinn, og upplesin Yfir-rettar stefna af 18da Nóvembr. 1772, med hvørri stefniſt Løgsagnarinn Arngrímur Jónsson og Løgmadurinn S. Sølvason, þeirra afsøgdu Hjerads og Løgþingis dóma ad forsvara, sem þeir afsagt hafa í landa-þrætu máli millum nefnds Helga á þá einu, og Páls Hallgrímssonar, Peturs Olafssonar og Illhuga Jannessonar á þá adra sídu, sem einnig eru stefndir ad mæta og forsvara sína Actión, med vídara, sem stefnan med ser færir, lesin og merkud lit. A. Þvi nærst var upplesinn Hjerads og Løgþingis Próceſs í málinu, sá fyrri af 21ta Júní og 1ta Octóbr. 1771, í hvørs slúttníngu þrætulandid er dæmt Helga; sá sídari af 13da og 15da Júlí 1772, sem upphefur Hjerads dóminn, og frádæmir Helga þad umþrætta land, sem Próceſſinn vídar útvísar, markadur lit. B. Løgmadur S. Sølvason mætir sín egiun vegna, og framlagdi innlegg af dags Dató, hvar í hann prótesterar, ad Vice-Løgmadur J. Olafsson og Klausturhaldari H. Vidalín hafi Vótum í þessari søk, þad uppleſid merkiſt lit. C. Þvi nærst var

var uppleſid Helga Bjørnsſonar innlegg af 29da Júní nærſtlidna, hvar í hann ákærir Løgmanns S. Sølvasſonar dóm í ſøkinni, og framfærir hennar Demonſtratión, og endilega ſitt Paaſtand og Irretteſættelſer, med vidara, ſem ſama innlegg med ſer ber, leſid og auðkennt lit. D. Frá Løgſagnara A. Jónsſyni var framlagt innlegg af 28da Júní nærſtl., hvar í hann framfærir þau helſtu rok og Beviſingar, hvar á hann haſi grundad ſinn affagda Hjeradsdóm í ſøkinni, ſem hann uppáſtendur verdi ſtadfeſtur, og ſer tildæmiſt Satisfactión og málskoſtnadur, med fleirn, ſem innleggid med ſer færir, leſid og markad lit. E. Løgmadur S. Sølvaſon framlagdi enn þá innlegg af dags dató, til forſvars ſínum affagda Løgþíngis dómi í ſøkinni, hvar í hann einnig uppáſtendur, ad Helgi verdi tilfundinn ad betala ſer nockud tølnverdt, þad leſid og markad lit. F. Uppá Páls Hallgrímsſonar, Peturs Olafsſonar og Illhuga Janneesſonar vegna mætir Sýſlumadur J. Jakobsſon, ſem uppáſtendur, ad Løgmannſins dómur verdi ſtadfeſtur, en Helgi álitiſt, ſem temere litigans, og tildæmiſt ad betala gylda Satisfactión og málskoſtnad til ſinna Principaler, þar ed Próſeſſinn ſýni, ad hann ecki haft haſi minnſtu orſøk til ad innſtefna ſøkinni fyrir Yfir-rettinn. Meira qvádnuſt partarnir ecki hafa ad framfæra; var því ſøkin upptekin til dóms og þannig affagdur, ſem fylgir:

Til ad bevísa sinn eignar-rètt til þeirra umtvístudu svo kolludu Teiga, hefir eigandi jardarinnar Hóls, Helgi Bjørnsson, fært vitni fyrir Rètti Løgsagnarans Arngrims Jónssonar, uppá þad, ad jørdin Hóll hefdi meiri rètt til Teiganna, heldur enn jardirnar Hvammur og Kúástadir, hvørra jarda egendur hafa einnig hast og viljad bevísa sinn eignar-rètt til sømu Teiga, ecki einúngis med gømlum vitnisburdum, sem útgéfnir vóru hèr um 1600, heldur og med nýjum, sem fyrir Hèrads-rèttinum, høldnum ad Hóli í Svartárdal, þann 21ta Júni 1771, teknir eru. Af beggja partanna fyrir Hèrads-rèttinn framfærdu ástædum og vitnisburdum, er audsjáanlegt, ad hvorutveggju hafa nefnt lands-pláts beitt og brúkad, svo þad hefir allt af verid, eins og þad einnig er enn þá, þrætu-pláts beggja jardanna egenda á milli, og hvørugur þeirra hefir fengid fullkomlegann eignar-rètt, edur riktuga hefdar adkomst þar til; þvi dæmist rètt:

Þeir svo kolludu Teigar skulu hèr eptir átølulaust tilheyra Hóli ad helmíngi móti Hvammi og Kúástødum, svo allar þessar jardir hafi rèttugheit til ad brúka, behalda og sèr í nyt ad færa þetta lands-pláts, þó svo ad Hvammur og Kúástadir ecki brúki eda nýti sèr

marg-

margnefnda Teiga meir enn til helm-
inga móti Hóli. *Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | B. Markússon. |
| M. Olafsson. | G. Runólfsson. |
| L. Gudmundsson. | J. Eggértsson. |
| S. Sigurdsson. | S. Finnsson. |
| J. Jónsson. | H. Þorgrímsson. |



Annó 1774, þann 25ta Júlí, var Yfir-rétturinn settur, undir Præsidió Stiptamtmanns L. A. Thódals, med undirskrifudum Assessórum.

## Num. I.

Mætti fyrir Yfir-rettinum Sýslumadur L. Gudmundsson, sem tilskickadur Actor í Þórunnar Einarsdóttur dulsmáls-sök, og framlagdi Yfir-rettar stefnu, med hvorri Lögmadur S. Sölvason og Sýslumadur J. Arnórsson eru stefndir ad forsvara heirra afsögdu lífláts dóma yfir nefndri Delinqventinde, sem einnig er stefnd ad mæta fyrir Yfir-rettinum, til ad svara henni fyrirlögdum spursmálum, og framsæra sitt för-



svar, stefnan uppleſin og merkud lit. A. Þvi nærst vórn framlagdir Hjerads og Løgþingis Próceſſar og dóm-ar i ſøkinni, i hvørra ſlúttningu Delinqventinden Þór-un, er dæmd ad miſſa lífid fyrir framid dulsmál, upp-leſnir og markadir lit B. Actor framlagdi innlegg, med hvørju hann uppáſtendur Hjerads og Løgþíngis-dómanna ſtadfeſtingu, uppleſid og audkennt, lit. C. Uppá Delinqventindens vegna mætir, ſem tilſkickadur Defenſor, Sýſlumadur V. Jónsſon, og framlagdi inn-legg, hvar med hann uppáſtendur, ad Hjerads og Løg-þingis dómarnir affagdir yfir Delinqventinden, verdi, ſem ofhardir, upphafdir og þeim fráſallid, þad upp-leſid áteiknaſt lit. D. Sýſlumadur J. Arnórsſon fram-færir, ad ósktudu þvi, ſem Defenſor haſi hjer uppá-ſtadid, hafi hann þó anſjed ſikkerſt, ad dæma Delin-qventinden frá líſinu, beint eptir løgunum, og innlæt-ur ſøkina til dóms. Actor og Defenſor høfdu ecki held-ur meira ad framfæra, hvar fyrir ſøkin var til dóms upptekin, og ſvolátandi affagdur:

Sá af Løgmanninum S. Sølva-syni affagdi Løgþingis dómur i þeſſu máli, er af Yfir-réttinum i þann máta ſtadfeſtur: ad Delinqventinden Þórun Einarsdóttir, ſkal fyrir medgengid og henni yfirbevíſad dulsmál árid 1770, miſſa

missa høfudid; en med því svo vel af Prestanna Attestum í Prócessinn innfærdum, sem ødrum sakarinnar kríngumstædum er audsjáanlegt, ad þetta er ein mikid einføld manneskja, sem fyrst hefir ordid confirmerud á síns 20ta aldurs ári, en hefir á því 21ta strax eptir, framid dulsmálid, er hún af ótta fyrir barnsfødurnum segist gjørt hafa, en ecki vitad hvørt straff vid lá, þaradauki aldrei séd barn fædast, edur nýfædt barn augum litid; þá innstilliþt allraundirdánugast til Hans Majst., hvørt þessar kríngumstædur, sem og einnig, ad Delinqventinden hefir ad undanførnu fært skickanlegann lifnad, kynnu ecki ad takast í allranáduguſtu yfirvegun til straffsins linunar. *Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| D. Stephánsson. | B. Markússon. |
| G. Runólfsson. | M. Kétilsson. |
| J. Eggértsson. | P. Axelsson. |
| V. Schéving. | S. Finnsson. |
| M. Gíslason. | J. Arnórsson. |
| J. Jónsson. | H. Þorgrímsson. |



# Num. II.

Sama Eptirmiddag mætti í Yfir-rettinum Sýslumadur G. Runólfsson, og sem tilskickadur Actor í Páls Bjørnssonar og Gudrídar Vilhjálmsdóttur dulsmáls sök, framlagdi Yfir-rettar stefnu, med hverri stefnast Sýslumadurinn O. Erlendsson og Løgmadur S. Sølvason, til ad forsvara þá í sökinni gengnu Hierads og Løgþingis dóma, hún upplesin og merkud lit. A. Framlagdi svo Actor þá í sökinni gengnu Hierads og Løgþingis Prócessa og dóma, í hverra slúttningu Delinqventerne eru dæmd frá lífinu, fyrir framid dulsmál, sem Prócessarnir framar med ser bera, upplesnir og markadir lit. A. Actor Syslumadur G. Runólfsson refererar sig til laga og Forordnínga, hvert heldur Delinqventanna framinn misgjørníngur verdi álitinn fyrir dulsmál edur grófara Delictum. Uppá Delinqventanna vegna mætir þeirra tilskickadur Talsmadur, Sýslumadur P. Axelsson, og framlagdi innlegg, hvar í hann framfærir Delinqventanna forsvar og afbatanir, lesid og markad lit. C. Vídara søgdust partarnir ecki hafa ad framfæra í sókn edur vørn málsins, var því svo látandi dómur í sökinni afsagdur:

Yfir-rétturinn fríkénnir Gudrúnu Vilhjálmsdóttur fyrir øllu straffi í þessu máli, þar eckért er henni í því yfir-

he-

bevísad, sem eptir løgum og Rétti kann saknæmt álitast; þarámóti skal Páll Bjørnsson, fyrir sinn misþenktann umgáng med þess nýfædda og lítilfa barns medhøndlun, hvørs høfud er fundid brotid, jafnvel þótt sá verknadur sé honum ecki ysirbevísadur, samt innant lítilfjørlegum lepp nidurgrafid hálfa alin í sandinn á Reykjarfirdi, erfida í því íslendska Tukthúsi nærstkomandi 2 ár.

*Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | B. Markússon. |
| M. Kétilsson. | J. Eggértsson. |
| V. Schéving. | S. Finnsson. |
| M. Gíslason. | J. Arnórson. |
| J. Jónsson. | H. Þorgrímsson. |
| J. Arnórsson. | V. Jónsson. |

## Num. III.

Þann 26ta Júlí settist Yfir-retturinn ad nýju, mætti þá Sýslumadur M. Ketilsson, sem tilskickadur Defensor í Bergs Pálssonar Þjófnadar-máli, og framlagdi Yfirrettar stefnu af 18da Július, hvar med Løgmad-

madur B. Markússon og Sýslumadur G. Runólfsson eru stefndir til ad forsvara þeirra yfir Delinqventen, afsøgdu Hierads og Extra-Løgþíngis dóma, semsem stefnan vidara med sér færir, upplesin og mærkud lit. A. Løgmadur B. Markússon framlagdi Exceptións inulegg mót stefnunni, og prótesterar ad mæta med Aftens-Varsel, þad upplesid og markad lit. B. Sýslumadur M. Ketilsson lagdi bón fyrir, ad Løgmadurinn vildi gódmótlega mæta, svo søkin og Rettvinn ecki uppihaldist, hvørju Løgmadurinn játadi. Framlagdi svo Defensor, Sýslumadur M. Ketilsson, Hierads og Extra-Løgþíngis Prócessa og dóma í málinu, í hvørra slúttníngu Delinqventen Bergur Pálsson er dæmdur til ad kagstrýkjast, og erfida sína lífstíd í Kaupmannahafnar Festíngu, upplesnir og markadir lit. C. Actor í málinu, Sýslumadur J. Jónsson, framlagdi innlegg af dags Dató, hvar í hann demonstrerar sakarinnar ásigkomulag, og uppástendur Extra-Løgþíngis dómsins stadfestíngu, m. v., upplesid og áteiknad lit. D. Sýslumadur M. Ketilsson uppástendur, ad eckert finnist í Prócessinum, sem hindri Delinqventen frá ad afleggja sinn fríunar-eid, sem hann uppástendur Bergi verdi tillátinn. Løgmadur B. Markússon uppástendur, ad sinn dómur verdi stadfestur. Delinqventen fyrir Rettinum examineradur, finnst ad vera mikid ósløðugur og sjálfum ser mótsegjandi í fram-

framburdi sinum; og þó hann uppástædi, ad hans forskaffada heimild fyrir peníngunum, væri fyrir Hjerads-rettinum ófullkomlega ransøkud, medkenndi hann þó, ad þeir peníngar, sem á honum funduft, hefdi verid stolnir frá Jóni Rafnssyni, og þeir sømu, sem hann eptir lýsti, en ljet þar hjá á ser merkja, ad þeim hefdi verid leynilega á sig komid. Aptur tilspurdur af Rettinum: vegna hvørs hann hefdi lýst fyrir Hjerads-rettinum, ad þessa penínga hefdi med ser flutt frá Grindavík, og þeir honum þar verid lánadir? vissi engu eptirtektanlegu þar til ad svara, og vildi eckert framar fyrir Rettinum medkenna, hvar fyrir søkin var til endilegs dóms upptekin, eptir ad Actor og Defensor vóru ádur tilspurdir, hvørt meira hefdu fram ad færa? hvørju þeir neitudu, er svolátandi var affagdur:

Þeir yfir Delinqventinum Bergi Pálssyni gengnu Hérads og Extra-Løgþíngis dómar, í hans þjófnadar-máli, sem ecki einúngis eru grundadir á mørgum sterkum líkum, heldur einnig á eidsvørnum vitnum og egin medkenníngu Delinqventens, sem gjøra hann sannann ad søk, ad stolid hafi þeim 40 rdlm. 4 marki Crón., 5 rdlm. Spec., 1 dobbelt Crónu og 24ß., sem Jón Rafnsson

 misti

misti hann 9da Apr. 1773, en af Bergi teknir vóru sama dag af 3ur dánumönnum, hvar fyrir hann hefir enga løglega heimild edur adkomst skaffa kunnad, þótt med mørgum útflugtum hafi þar vid leitast, eru af Yfir-réttinum stadfestir.

*Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | S. Sølvason. |
| L. Gudmundsson. | J. Eggértsson. |
| P. Axelsson. | V. Schéving. |
| S. Finnsson. | M. Gíslason. |
| J. Arnórsson. | H. Þorgrímsson. |
| J. Arnórsson. | S. Sigurdsson. |

## Num. IV.

Sýslumadur V. Scheving próducéradi fyrir Yfirrettinum eitt Dócúment, undir Sýslumanns G. Runólfssonar nafni, svo hljódandi:

„Sekum þess, ad eg undirskrifadur sje ecki af Hrá. Løgmanns S. Sølvasonar dómi, afsøgdum 14da Júli nærstlidid ár, ad hann hafi dæmt minn Principal, Atla Jónsson, búandi í Bardastrandar-sýslu, skyldugann til ad eptirlifa þeim Hérads dómi, sem Sýslumadurinn H. Jakobs'

kobsson affagdi í hördóms sek Jóns heitins Jónssonar á Arnkøtlustødum í Strandasýslu, þann 30ta Sept. 1772, heldur vísad því máli til síns rétta forum; þá, eptir mér géfinni fullmakt nefnds Atla, af 16da hújus, fráfell eg eldúngis þeirri Yfir-réttar stefnu, sem í tjedri sök er nærstlidid sumar móti Hrá. Løgmanninum út-tekin. Øxarár Løgþingi, þ. 26ta Júlí 1774.

G. Runólfsson.

Sjed, lesid og samþyckt, die & loco ut supra.

S. Sølvason.

## Num. V.

Sama eptirmiddag mætti fyrir Yfir-rettinum Sýslumadur M. Ketilsson, sem tilskickadur Actor í Þórunnar Jónsdóttur máli, móti Sýslumanni H. Jakobssyni, og framlagdi Yfir-rettar-stefnu af 20ta Júlí a. p., med hvørri stefnist Sýslumadur H. Jakobsson, til ad forsvara sinn, þann 5ta Aug. 1769, yfir nefndri Þórunni affagda dóm. Med sömu stefnu er og stefndur Løgmadurinn S. Sølvason, ad forsvara sinn geng-inn Løgþingis dóm í sökinni; stefnan lesin og merkud lit. A. Uppá Sýslumanns H. Jakobssonar vegna, mætir, eptir hafandi fullmakt, Sýslumadurinn P. Arelsson, sem framlagdi Yfir-rettar kontra-stefnu, med hvørri stefnist Sýslumadur M. Ketilsson, til ad for-



svara sína Actíón, og Lögmadur S. Sölvason til ad forsvara sinn dóm í sökinni, assagdann hann 16da Júlí 1773, sem hún vidara medfærir, lesin og merkud lit. B. Actor framlagdi Hjerads og Lögþíngis dóma í sökinni, med þeim fyrra er Þórunn dæmd til Júftits-Kassans, sátækra og kirkna, undir húdláts refsíngu, ef ecki getur betalad, hvorr dómur sídan er upphafinn med þeim seinni, edur Lögþíngis dóminum, og Sýslumadur H. Jakobsson dæmdur í 4ra hundr. útlát til Þórunnar, 3 hundr. til Actóris og 2 rdli. til Júftits-Kassans, sem sami Prócess med ser ber, lesinn og markadur lit. C. Sýslumadur P. Axelsson framlagdi tvo innlegg undir nafni Sýslumanns H. Jakobssonar; í því fyrra leidir hann fyrir sjónir sakarinnar Tildragelse og Sammenhæng, þad uppleslid og áteiknad lit. D. Í því sídara áklærir hann Sýslumanns M. Ketilssonar Actión og Prócedeure, samt uppástendur Satisfaction og máls-kostnad, m. v., sem sama innlegg med ser ber, upplesid og markad lit. E. Actor uppástendur, ad þad, sem Sýslumadur H. Jakobsson framfæri og uppástandi í sínum framlögdu innleggjum, seu einúngis ógrunndadar útflugtir, refererar sig til síns innleggs fyrir Lögþíngis rettinn, og síns kostnadar reiknings, framlögdum fyrir sama Rett, hvar til hann óskar og uppástendur, ad leggist 10 rdlr., fyrir sakarinnar innsteníngu og Actión fyrir Yfir-rettinn. Partarnir adspurdir: hvort meira hefdu fram

fram ad færa í sókn edur vörn? svörudu: nei! var því sökin upptekin til endilegs dóms; sem svolátandi var afsagdur:

Lögmanns S. Selvasonar dómur í þessu máli, afsagdur þann 16da Júlí 1773, er af Yfir-réttinum stadfestur, en Prócess kostnadur af hvörugum partinum, sem málinu hafa innstefnt til þessa Réttar, þar fyrir dæmdur.

*Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | B. Markússon. |
| L. Gudmundsson. | J. Eggértsson. |
| B. Schéving. | S. Finnsson. |
| M. Gíslason. | J. Arnórsson. |
| J. Jónsson. | H. Þorgrímsson. |
| J. Arnórsson. | S. Sigurdsson. |

## Num. VI.

Þann 27da Júlí settist Yfir-retturinn ad nýju, mætti þá hinn tilskickadi Actor í Gudrúnar Pálsdóttur duls, máls sök, Sýslumadurinn P. Axelsson, og framlagdi Yfir-rettar stefnu, med hvörri stefndir eru, Lögmadur B. Markússon og Sýslumadur S. Sigurdsson, til ad forsvara þeirra, yfir nefndri Delinqventinde, afsögdu

 lífs-



lisláts dóma; stefnan upplesin og mørkud lit. A. Því nærst framlagdi Actor Hjeradsʼ og Løgþíngis dóma í málinn, í hvørra slúttníngu Delinqventinden Gudrún Pálsdóttir er dæmd, fyrir tvø framin dulsmál, ad klípast, og missa hønd og høfud, upplesnir og áteiknadir lit. B. Aktor uppástendur, ad í sókinni dæmt verdi, eptir framkomnum actis og probatis. Delinqventindens Defensor, Sýslumadur V. Jónsson, uppástendur þar á móti, ad Løgþíngis dómurinn verdi modereradur, í tilliti til þess, ad þad sé ecki bevísad, ad børnin hafi med lífi fædst, edur ad hún þau myrdt háfi, þar fyrir utan hafi hún sagt sig af barnsfødur sínum til þess hrædda, ad umgángast leynilega med fædínguna, og sjái út til ad vera mikid einføld manneskja. Meira søgdust partarnir ecki hafa fram ad færa, hvørs vegna svolátandi dómur var í málinu afsagdur:

**Gudrún Pálsdóttir, sem hefir játad ad sig framld hafa tvø dulsmál hvørt eptir annad, árin 1769 og 1770, og bádum sínum føddu børnum sídan í sjó kastad, þaradauki medkennt fyrir yfsetu konunum Cecilíu Sigurdardóttur og Ingveldi Gudmundsdóttur, ad árid 1771 hafi med barns-þyckt verid í þridja sinni, hvad yfirsetu-konurnar, eptir**

eptir gjørda ransókn, hafa einnig med svørnum eidi sannad og stadfest, ad hvørju þridja barni hún hefir einnig útlagt **Philippus Eyólfsson** fyrir fødur, jafnvel þótt enginn viti til þess fædíngar, edur hvad af því sé sídan ordid, er hún vill ecki augljóst gjøra, heldur frágengur nú sinni, fyrir yfirsetu-konunum, gjørdu lýsíngu, skal fyrir þessi sín tvø framin dulsmál, hvør þad hid þridja mispenkta kann ecki annad enn qvalificera, missa sína hønd og høfud, og hvørttveggja uppsetjast á stjaka.

*Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | S. Solvason. |
| M. Kétilsson. | J. Eggértsson. |
| L. Gudmundsson. | B. Schéving. |
| S. Finnsson. | M. Gíslason. |
| J. Arnórsson. | H. Þorgrímsson. |
| J. Jónsson. | J. Arnórsson. |

## Num. VII.

Sama dags eptirmiddag mætti fyrir Yfir-rettinum tilskickadur Aktor í Margretar Gudbrandsdóttur

duls-



dulsmáls sök, Sýslumadurinn í Isafjardar-sýslu J. Arnórsson, sem framlagdi Yfir-rettar stefnu, med hverri innstefnast þeir yfir Delinqventinden afsøgdu Hierads og Løgþingis dómar, sá fyrri til Skærpelse, hinn til stadfestingar, stefnan lesin og mørkud lit. A. Því næst framlagdi Aktor Hierads og Logþingis dóma í málinu; med þeim fyrra er Delinqventinden Margret dæmd ad erfida sína lifs-tid í því íslendska Tukthúsi, med þeim sídara ad missa sitt høfud med eggsi, m. v., sem Prófessarnir med ser bera, lesnir og markadir lit. B. Aktor uppástendur, ad Delinqventinden dæmist frá lífinu, eptir NL. 6-6-7. Delinqventindens Defensor, Sýslumadur S. Þorgrímsson uppástendur þarámóti, ad þar sem engar ánægjanlegar røksemdir fyrir því, ad Delinqventinden hafi barn fædt edur myrdt, utan hennar egin medkenning, sem hann meinar ecki fullnóga, og vonar því ad Løgmannsins dómur verdi modereradur. Delinqventinden fyrir Rettinum examinerud, játar þad sama, sem fyrir Løgþingis-rettinum, en leggur þad til: ad Gunnhildur húsmódir sín hafi farid heimanad med ser þángad, sem hún fæddi barnid, skipad ser ad farga barninu og ljed ser þar til knif, og borid þad frá ser ofaní lónid, og á heimleidinni hafi hún sagt ser, ad bidja sig ad fara eptir yfirsetu-konunni, sem þá hafi komid. Partarnir qvádust eckert meira hafa ad framfæra, hvørs vegna eptir þessum kríngumstædum fiell svolátandi Yfir-rettarins Alyktun:

Yfir-

Yfir=rétturinn finnur naudsynlegt, ad Gunnhildur Jónsdóttir á Dyrhólum og Ingveldur Gudmundsdóttir yfirsetu=kona á Vestmannaeyjum, sem vitnad hafa í þessu máli, mæti fyrir landsins Yfir=rétti nærstkomandi ár 1775, til nyrrar Examination og Konfrontation med Delinqventinden Margrétu Gudbrandsdóttur, fyrir hvørra ferd híngad vidkomandi Syslumenn ega ad gjøra forneden Anstalt, þá einnig endilegur dómur verdur afsagdur yfir Margrétu Gudbrandsdóttur; á medan á hún ad vera í forsvaranlegu vardhaldi Kaupmannsins í Vestmannaeyjum á Tukthúss=Kassans kostnad. *Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | S. Sølvason. |
| M. Ketilsson. | J. Eggértsson. |
| L. Gudmundsson. | V. Schéving. |
| S. Finnsson. | M. Gíslason. |
| P. Axelsson. | V. Jónsson. |
| J. Jónsson. | J. Arnórsson. |

## Num. VIII.

Sama eptirmiddag mætti fyrir Yfir-rettinum Full-mektugur þess almennilega Handels-Kompagnies, Hans Lindberg, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 5ta Maí þ. á., med hvørri stefnast Sýslumadur M. Ketilsson og Løgþíngisskrifarinn S. Sigurdsson, til ad forsvara þeirra, þann 12ta Octóbr. 1773, afsagda Kommissions dóm og brúkadann umgáng, í einni, af Landfógeta S. Magnússyni, móti nefndu Kompagnie, høfdadri søk, reisandi sig af medhøndlun þeirra uþíu Innrettinga í Reykjavík, med fleiru þar ad lútandi; med sømu stefnu er og stefndur Landfógetinn S. Magnússon, til ad forsvara sína Action í nefndri søk, og framleggja sína fullmakt. Af stefnunni eru 2 samhljódandi Gjenpartar, hvørra sá eini hefir auglýstur verid Landfógeta S. Magnússyni og Sýslumanni M. Ketilssyni, og sá annar Løgþíngisskrifara S. Sigurdssyni, sem þeirra uppáskriftir sýna; hún upplesin áteiknast lit. A. Sýslumadur M. Ketilsson mætir uppá eginn og Med-kommissarii vegna, eptir hafandi fullmakt, og framlagdi innlegg undir Løgþíngisskrifarans nafni af 1ta hujus, hvar inni hann prótesterar ad søkin fyritakist, svo sem hún fortere undir Hærsta-rett, og færir þar til adskiljanlegar Forordníngar og Rescript; þad lesid og markad lit. B. Annad innlegg framlagdi Sýslumadur M. Ketilsson undir sínu egin nafni, af 25ta hujus, sømu meiníngar og inni-

innihalds, sem það fyrra, það lesið og markað lit. E. Prócurator S. Lindberg uppástendur í kroptugasta máta: að sökin verði fyrirtekin, í Folge den udtagne Stevning og dens Præliminaires Poster først paakjendte, áður enn höfuð sökin fyritakist.

## Num. IX.

Þann 28da Júlí kom fyrir Yfir-rettinn Procurator S. Lindberg og framlagði innlegg af dags dato, hvarinni hann uppástendur: að sökin eigi og megi af Yfir-rettinum fyritakast, sem innleggið framar útvísar, lesið og markað lit. D. Sýslumaður M. Ketilsson mætir einnig, og refererar sig til þess, af hönum í gjær framlagða innleggs, og prótesterar að sökin verði fyritekin, svo vel þess vegna, að það se ein Kommissions sök, sem ecki sortere undir þenna Rett, sem og hins, að hún hafi nú fengið allt annað form enn hún hafði, þar Kompagniet se nú afgengið, og Hans Kongl. Majst. kominn í þess stað, og hönum yfirdregnar þess Effecter og eginndómar, hvar um sökin höndli. Undir nefnt innlegg Sýslumanns M. Ketilssonar skrifar nú Landfógetinn sitt nafn, og erklærar þar með sitt Paastand í sökinni að vera það sama; hvar uppá Sýslumaður M. Ketilsson biður um Yfir-rettarins Urskurð, sem fiell svoleiðis:

M. Yfir-retturinn álítur ecki Sýslumanns M. Ketilssonar og Lögþingisskrifarans S.

 Sig-

Sigurdsſonar Exceptíón ſvo grundada, ad hann þeſs vegna þecki ſig midur competent til ad dæma í þeirri hér nú ùnnſteſndu, og af þeim, ſem Kommiſſariis uppádæmdu ſok; enn þeim ſokum, ſem frá Logþingis-réttinum verda fyrir Yfir-réttinn innſteſndar, þar hvergi finnſt af Hans Majeſtet allranádugaſt befalad, ad Kommisſions dómar ſkuli gánga Yfir-réttinn fyrir bí, miklu heldur, eptir ſamanburdi vid Norſku-Log, hvorra modo procedendi er med kóngl. Reſkripti af 19da Febr. 1734 befalad ad fylgja hér í landi, er audſært, ad Appell frá bevilgadra Kommiſſariers dómum, má ſke til landſins Yfir-réttar, eins og í Norvegi er brúkanlegt til Over-Hoff-Retten, þar bádir þeſſir Réttir eru á bádum ſtodum ſú þridja Inſtance, fyrir hvorja Yfirdómara, ſvo vel ſem bevilgadra Dómara Affigter ega ad innſteſnaſt, ſvo ſem þad og vildi vera íſjárverdt og Réttinum til anſvars, ef hann uppá ſvoddan Exceptíón ſkyldi afvíſa einum Citant og hindra hann frá ad ſækja ſinn rétt fyrir landſins Yfir-rétti, ſérdeilis, ef ſokin kynni vera af þvi áſigkomulagi, ad hún þyrfti naudſynlega ad nýju ranſakaſt edur upplýſaſt hér í landi, ſem án efa í þeſſu tilliti, ſvo vel ſem og, ad facilitera landſins innbyggjurum þeirra rétt, heſir mátt vera Scopus til Yfir-réttarins Stiftelſes; enn framar vita menn, ad Handels Kompagnienu var allranádugaſt eptirlátid, ſem eitt ſérdeilis Privilegium, eptir þeſs þar um gjordri

gjördri allraundirdánuguſtu Anſøgning, ad ſá hér í landi ſídaſt affaadi Kommiſſions dóm-ur, í þeirri ſvo kolludu Konfiskations ſøk, mætti directe verda innſteſnt fyrir Hans Majeſtets Hæſta-rétt, ſem hefdi verid ſtór óþarfi, ef Yf-ir-réttarinn hefdi ecki átt ad álltaſt fyrir þá næſtu Inſtance fyrir ofan bevilgadar Kom-miſſioner, og kémur þeſſi Exception Réttinum því heldur undarlega fyrir, ſem Landfógetinn og Sýſlumadur M. Ketilsſon hafa fyrir Fullmektugann, ſjálfir látid Yfir-réttar ſtefnu út-taka, í neſndri Konfiskations ſøk 1772, og hana auglýſa vidkomendum, enn og ſvo eptir þad þeir fengu ad vita, ad hún, eptir allra-náduguſtu Bevilling, mátti innſteſnaſt fyrir Hæſta-rétt; ad hvorju athugudu álýktaſt:

Kompagniets Fullmektugur Hans Lindberg, hefir ecki einúngis réttilega innſteſnt nú fyrirhafandi ſøk fyrir Yfir-réttinn, heldur álitſt hann þar til fullkom-na Anledning haft hafa, ſvo vel í tilliti til þeſs gengna Prócedeure, ſem dóms í ſøkinni, eptir ſtefnunnar tilvíſun.

Hvad þeirri annari Exception þarámóti vidvíkur, þá er ſlúttanlegt, ad Hans Majeſt. muni uppá einhvorn máta hafa antekid Inn-réttingarnar, þar þær, eptir þeſs konúnglega Rentukammers bodi ſkulu nú beſigtaſt eins og adrar Effecter, ſem Kompagnienu hafa tilheyrt,

Þótt ecki viti menn, med hvada kjørum svodd-ann er skéd, jafnvel Þótt menn ímindi sér, ad Hans Majestet hafi ad ǫllu leiti skilid Kom-pagniet vid Innréttingarnar, svo vel sem Þau Onera og Pligter, sem Þeim fylgja, følgelig einnig vid Þennann Próceſs. Og med Því Hans Majestet, med Því ad taka Innrétting-arnar til sín, væntanlega ansíest ad ega allt Þad í Innréttingunum, sem Kompagniemn ád-ur tilheyrt hefir, sem er víst Þeirra mikill part-ur, hvar af fylgir, ad Landfógetinn kynni an-siást ad vilja færa Þessa sök fyrir Hans Ma-jestet, sem stærsta egara Innréttinganna, móti Hans Majestet siálfum; Þá í mangel af part-anna skirri undirréttingu hér um, er Þeir hafa ecki géfa kunnad, álítur Yfir-rétturinn í Þessu tilliti varlegast:

Ad útsetja sǫkina til nærstkomandi árs, Þá menn vænta ad fá fullkomna vissu um, hvørnig med hana og hennar Procedeure egi ad høndla, hvørt heldur uppádæmast fyrir landsins Yfir-rétti, edur Hans Maje-stets Hæsta-rétti. Imidlertid reserveres saavel Kompagniets sem Landfógetans og Kommissariernes réttur hvørs til annars, sem skal vera ópræjudiceradur, og Þeir skyldugir hér ad mæta edur mæta láta, med authentiqve upplýsingu hér um, Þá

þesse sök kémur aptur fyrir þennann Yfir-rétt. Actum ut supra.

L. A. Thódal.

| | |
|---|---|
| O. Stephánsson. | S. Sølvason. |
| B. Markússon. | J. Eggértsson. |
| P. Axelsson. | V. Schéving. |
| S. Finnsson. | M. Gíslason. |
| J. Arnórsson. | H. Þorgrímsson. |
| V. Jónsson. | S. Sigurdsson. |

Annó 1775, þann 22ann Júlí, var Yfir-rètturinn settur, undir Præsidió Stiptamtmanns L. A. Thódals, med undirskrifudum Assessórum.

## Num. I.

Mætti fyrir Yfir-rettinum, eptir hafandi fullmakt, Sýslumadurinn í Arness-sýslu S. Finnsson, og framlagdi Yfir-rettar stefnu af 25ta Júlí 1774, útgefna Prófastinum Vigfúsi Jónssyni í Hýtardal, med hvørri innstefndir eru fyrir þessa árs Yfir-rett: 1.) Løgmadur S. Sølvason, til ad forsvara sinn, þann 13da Júlí nærstl. árs, afsagda Løgþingis dóm, med hvørjum hann hafi

hafi vid makt kjennt þá stöſlu, ſem Þorkell Sigurdsſon hafdi ſett í Hreidarvatns læk. 2.) Sýſlumadur H. Þorgrímsſon til ad framleggja ſiuna meddómsmanna fúllmakt, og ad forſvara ſinn aſſagda Hjerads dóm í ſkinni. 3.) Þorkell Sigurdsſon til ad forſvara ſína Action í málinu; ſtefnan uppleſin áteiknaſt lit. A. Lögmadur S. Sölvaſon framlagdi Exceptions innlegg, hvar inni hann próteſterar Prófaſtinn, ſvo ſem Actorem incompetentem, móti hvörjum hann aldrei dæmt hafi, uppleſid og áteiknad lit. B. Sýſlumadur H. Þorgrímsſon framlagdi og innlegg, hvar med hann próteſterar móti Prófaſtſins Action, ſvo ſem hann ſe ſökinni óvidkomandi, og þar hjá legaliter inhabilis Actor, m. v.; þad uppleſid áteiknaſt lit. C. Þorkell Sigurdsſon framlagdi og ſvo innlegg, próteſterandi þar med Prófaſtinn, ſvo ſem geiſtlega perſónu, ſem ekki megi beſatte ſig med verdslegar ſakir, ꝛc. uppleſid og áteiknad lit. D. Hjer uppá repliqverar Sýſlumadur S. Finnsſon, ad Prófaſturinn ſe eigari Skídshólta lands, og haſi því fullkominn rett til ad ſækja þeſſa ſök; framlagdi þar hjá Exceptions innlegg, hvar med hann átelur Formalia Prócesſins í Hjeradi, og uppáſtendur ad þad í ſkinni fyrir Hjerads- og Lögþíngis-rettinum paſſerada og dæmda, verdi dæmt og ályktad ſem ógyldt; uppleſid og áteiknad lit. E. Hjer uppá begjerdu Partarnir ſameginlega Yfir-rettarins Urſkurd, ſem ſjell ſvo látandi:

Yfir-

Yfir-rètturinn álítur Prófastinn V. Jónsson fyrir Actorem competentem, sem hafi haft mindugleika til að innstefna Lögmannsins dómi, viðvíkjandi hans eignar-jörðu Skíðsholtum, fyrir Yfir-rèttinn.

Var svo upplesinn Hjeraðs Acten í þessu máli, í hvörs slúttníngu Lögmadurinn hefir confirmerað Sýslumannsins dóm, uppleſinn og áteiknaður lit. F. Sýslumaður S. Finnsson framlagði innlegg, hvar inni hann uppástendur og vill bevísa, að sú umþrætta síýfla hafi verið löglega búrtrifin, sem það framar útvísar, upplesið og áteiknað lit. G. Þorkell Sigurðsson framlagði og innlegg, hvar með hann vill demonstrera, að hann hafi rettilega stýflað, m. v., sem það með ser ber, upplesið og markað lit. H. Viðara sögðust Partarnir ecki hafa að framfæra, var því sökin til endilegs dóms upptekin, og af Yfir-rettinum afsagður, svolátandi:

Sá svo kalladi Hreiðurs-veitu-skurður, sem rennur fram úr Hreiðurs-vatni, má ecki né skal hér eptir stemmast framar enn svo, að Skíðsholta engi taki þar við engann skaða, eptir Aasteds dómi Sýslumannsins H. Þorgrímssonar af 16da Apr. 1773, sem hér með er stadfestur, en Lögmannsins

sitts dómi fráfallid, og allar bætur, sem hafa reist sig af þessu máli, samt Próceß unkostnadur fyrir øllum réttum, uppháfinn. *Actum ut supra.*

L. A. Thódal.

O. Stephánsson. B. Markússon.
J. Olafsson. M. Olafsson.
D. Schéving. J. Arnason.
G. Runólfsson. L. Gudmundsson.
J. Jónsson. J. Jacobsson.
J. Arnórsson. H. Vídalín.

## Num. II.

Þann 25ta Júli ad Yfir-rettinum settum, mætti Sýslumadurinn í Isafjardar-sýslu J. Arnórsson, sem tilskickadur Aktor í duls-máls-søk Margretar Gudbrandsdóttur, og begjerdi, ad þad hier í fyrra afsagda Yfir-rèttarins Afsigt, mætti upplesast, ad hvørsu gjørdu Delinqventinden var fyrir Rettinn innkøllud og examinerud, og stendur hún ad øllu leiti vid sína í fyrra hier fyrir Rettinum gjørda lýsingu, svo vel í tilliti til ens framda dulsmáls, sem Gunnhildar Jónsdótturs medvitund þar í og Tilskyndelse þar til. Eptir Yfir-rettarins Afsigti mætir nefnd Gunnhildur, sem fyrir Rettinn innkølld og examinerud, fyrst út af fyrir

sig,

